


III. Winnipeg, Man. Nr. 7.

# MYNDUN JARÐARINNAR.

Vísindamenn eru nú búnir að rannsaka svo mikið um uppruna jardar, um hið fyrsta ástand hennar, að menn geta gert sér nokkurn vegin hugmynd um, hvernig það hafi gengið til. Það er vitaskuld, að hugmyudir þessar hljóta að vera meira og minna óljósar, en alla daga eru þær þó eins áreiðanlegar, eins og sköpunarsaga Móesesar. Ein hugmyndin er á þessa leið :

Í fyrstu er hvorki himin né jörð, ekki vötn eða sjór og ekkert land, ekki tré eða grös, ekki blóm eða dýr nokkursstaðar. Í geymnum, þar sem sólin nú rennur með öllum jarðstjörnum sínum, er ekkert nema þoka, afarþunn. Engin jörð, ekkert tungl, engin pláneta, en alt er ein afarþunn þoka; efnin liggja í dái, sundruð, ósamandregin, rétt eins og loftið sem vér öndum að oss. Enginn ljósgeisli lýsir heiminum, ekkert hljóð neyrist, alt er myrkur, þögn og dauði.

En einhvernveginn, enginn veit hvernig, kemur hreyfing á þetta; agnirnar fara að hreifast, við hreifinguna reka þær sig hver á aðra. Þær fara að draga sig hver að annari, það myndast hiti, hitinn eykur hreifinguna og samdrátturinn vex, þokuhringurinn verður þéttari og þéttari, hann brotnar upp, snýst saman, minkar að ummáli, brotnar upp aftur og aftur, þéttist meira og meira, snýst harðara og harðara. Hitinn margfaldast, alt loftið er á fljúgandi hreifingu, smáhnettir þessir reka sig hver á annan, einn svelgir upp annan, þeir hitna svo af fluginu og snúningnum, að þeir verða glóandi, það verður alt að einu eldhafi, sól jörð og tungl.

Milliónir ára er sóliu að myndast; þar er kjarninn, þungamiðjan, hún gleypir alt, sem næst henni er, en utan um hana sveiflast einn hringurinn utan yfir öðrum, allir glóandi, sjóðandi, og senda stöðugt frá sér hitann út í geyminn. Hringar þessir brotna í sundur aftur og aftur; þyngstu hlutar þeirra veltast saman í kúlu, kúlan stækkar einlægt, dregur í sig fleiri og fleiri smáparta úr hringnum, þangað til hún er búin að safna þeim öllum eða flestöllum saman. Kúlan er að verða að jörð. Enn eru engin dýr, engar plöntur, enginn sjór, ekkert land. Hún er enn glóandi eldhver, með ákaflega mikinn gufumökk utan um sig, það eru reifar hennar. Höfin og vötnin og árnar eru í gufulíki utan um jörðina. Hinir léttari málmar fljóta þá sem sjór á jörðunni, spýtast með feikna afli og ógurlegum brestum og braki langt upp í þokumökkinn. En einlægt kólnar meira og meira, því að einlægt sendir jörðin frá sér ákaflegan hitastraum út í helkaldan geyminn. Lífið á jörðunni er ekkert, því ekkert hefði getað lifað í þessum ofsa hita. En frumefnin, sem mynda lífið, liggja þó í jörðunni, fljóta um í hinu vellandi eldhafi, spýtast í eldstólpum út um gufuhvolfið, synda um það aðskilin, líflaus, og bíða eftir kaldari tímum og skini sólar á jörðu. Sólin, þetta mikla eldbákn, skín einlægt, en gufan er svo mikil í loftinu, að geislar hennar komast ekki inn að hveli jarðar. Tíminn líður, aldirnar eru sem dagar og nótt, þeirra gætir ekki meira. Milliónir ára er hitinn að minka, en einlægt heldur jörðin áfram ferð sinni kring um stærra eldbáknið, sólina.

Loks fer að kólna svo, að efnin, sem þola mestan hitann, fara að storkna. Yst á hveli jarðar er kaldast, þar fara að dragast saman flekar, hálfvellandi eins og hálfstorkinn málmur. Þeir sökkva aftur og aftur, leita inn að þungamiðju jarðar, eldflóðið vellur yfir þá, en þeir myndast aftur og aftur, verða fleiri og fleiri, stærri og stærri, uns það verður sem skurm á eggi, eða ís á polli nýfrosnum. Skurmið springur með voðalegum hvellum, en eldur gýs upp um sprungurnar. Jakarnir rísa á rönd, mynda hrannir á hraunflóanum, en það varir að eins stutta stund, eldurinn bræðir þá að neðan eins og vatnið ísinn, og þótt þeir hafi gnæft við himinn um stund, þá síga þeir þó niður aftur lengi framan af.

Það eru krystallarnir sem eru að myndast; þar fara frumefnin að dragast saman en hitinn bræðir þá upp aftur og aftur. En þeir herða sig, þeir taka til á ný, mynda stöngla, með greinum og blöðum sem tré væru, þeir færast í aukana og vefa dúk utan um jörðina. Einlægt minkar hitinn, jörðin sendir í sífellu feiknamikið hitamagn

út í geyminn, krystalladúkurinn, jarðskorpan, verður einlægt þykkri og þykkri, og einlægt verður jörðin ummálsminni. En við það að hún minkar um sig, skorpnar hún saman. Hún hleypir dúk þessum (skorpunni) í hrukkur, þær verða einlægt stórfeldari og stórfeldari, þær aflagast minna og minna, það eru fjöllin á jörðunni, þau eru hraungarðar sem komið hafa af því, að jarðskorpan hefir rifnað, og jakarnir risið á rönd. Þessir jakar rísa upp þvert og endilangt með stórum gjám á milli. Gjárnar eru í fyrstu tómar, en seinna, löngu seinna, þegar vatnið og frostið og vindarnir fara að verka á jakana, þá mylst úr þeim og hrynur ofan í lægðirnar, og verða af því dalir klæddir jarðvegi.

Nú verðum vér að líta nokkuð aftur í tímann. Löngu áður en jörðin var farin að skorpna og hrukkast saman á yfirborðinu og mynda dali og klettahryggi, eru ákaflega mikil umbrot og breytingar í gufuhvolfinu. Að utan úr geymnum var kuldinn, en að neðan frá jörðunni hitinn. Ystu lögin í gufuhvolfinu kólna, þar fara damparnir að draga sig saman, þéttast og falla niður sem regn, mynda þung og voðaleg ský, koldimm og svört eins og nóttin; en við mismun hita og kulda, koma byljirnir, voðalegir fellibyljir, sem hrista hin nýmynduðu fjöll og kletta. Vatnsskúrirnir verða þéttari og þéttari eftir því sem kólnar, vatnið steypist niður á jörðina sem elfa af hamri ofan. Stormarnir lemja það um klettana, ofan í gjárnar og rifurnar, og þar steypist það niður ofan í hið vellandi haf undir skorpunni, því að undir skorpunni er alt sjóðheitt. Þar soðnar vatnið á svipstundu, verður að lofti og sprengir upp jarðskorpuna með ógnalátum; heyrast þar dynkir og hvellir í sífellu, en skorpan kippist til, nötrar og skelfur sem á þræði leiki. Eitt gosið kemur á eftir öðru og breytir útliti jarðar hvað eftir annað; klettaflákarnir leggjast hver ofan yfir annan og þannig gengur það í milliónir sólára. Fjöllin lyftast hærra og hærra, klofna rifna sundur, það koma í þau skörð, dalirnir verða dýpri og dýpri, það berst í þá meira og meira ofan úr klettunum. Stormarnir verða harðari og harðari, eldingarnar leiftra um loftið þvert og endilangt, og lýsa upp myrkrið, sem verið hefir á jörðu frá því að skorpan kólnaði, en geislar sólarinnar gátu ekki klofið gufumökkinn. Það var eins og guðirnir væru reiðir, og vörpuðu eldfleygum hver að öðrum. En einlægt kólnar skorpan. einlægt rignir elfum vatns niður á jörðina, það fer að safnast fyrir í lægðum hennar og liggur þar um stund uns það gufar upp. Dalirnirnir fyllast meir og meir af leirburði úr klettahlíðunum. Vötnin fara að safnast saman í stórhöf, jarðskjálftarnir verða færri

og færri, en enginn getur búið til tímatöflu yfir aldur hafanna, vatnanna, fljótanna. Jarðfræðingarnir segja oss, að það séu milliónir ára. Þá fyrst, þegar vötnin fara að safnast saman á jörðunni og nema þar staðar, getur hið fyrsta líf farið að myndast, sveppar einhverjir, þang eður þarategundir, beinlaus lindýr í sjó, því enn er langur tími eftir til þess, að dýr geti lifað á landi. Loftið er fram á steinkolatímann fult af kolsýru, svo að þar getur ekkert kykvendi lifað. En sólargeislarnir þrengja sér lengra og lengra, dýpra og dýpra inn í gufumökkinn umhverfis jörðina, þeir skjótast við og við ofan að yfirborði hennar og kyssa hana lífgandi, hreinsandi ástarkossum. Myrkrin hverfa meir og meir, loftið hreinsast og lífið fer að margfaldast á jörðunni.

---

# UNITARISMUS.

Stutt ágrip af hinni unitarisku sögu.

---

Niðurlag.

Hvað kenningar unitara snertir, þá leiðir það af allri stefnu þeirra, er þeir gefa hverjum manni frjálsræði til þess, að neyta skynseminnar, að hugsa og álykta af skynsamlegum rökum, að rannsaka og prófa allar kenningar, — að í rauninni hafa þeir ekki slegið neinum trúarsetningum föstum, eins og önnur kyrkjufélög. "American Unitarian Association" hefir lýst yfir því, að augnamið sitt sé það, að útbreiða þekkingu og efla sanna og hreina kristni. En hvað sé hin sanna og hreina kristni, hefir ekki verið útskýrt. "National Conference" kveðst fylgja fagnaðarboðskap Krists, og býður öllum í félag sitt, sem vilji verða Krists eftirbreytendur. "Western Unitarian Conference" kveðst bjóða alla velkomna í félag sitt, sem vilji hjálpa til þess, að efla og grundvalla sannleika, kærleika og réttlæti á jörðunni, án þess að heimta neina sérstaka trúarjátningu.

En af því sem áður er sagt sést það, að enginn söfnuður er bundinn við yfirlýsingar þessar, því að hver söfnuður getur framsett sína trúarskoðun.

Hvað hinar sérstöku trúskoðanir unitara snertir, þá hefir þeim verið lýst fyr í þessari grein, og skal hér því að eins drepið á aðalstefnu þeirra.

Unitarismus er þá einkum leitun eftir guði, — leitun eftir guði í hinu náttúrlega fyrirkomulagi heimsins, í mótsetningu við "rétt-

trúnaðinn," sem skoðar guð fráskilinn heimínum, sem persónu, er lifað hafi á jörðu og ríki í himninum eins og konungur yfir ríki sínu. Unitarismus byggir á lögmáli náttúrunnar, en "rétttrúnaðurinn" á kraftaverkum.

Hvað manninn sjálfan snertir, þá byggír 'rétttrúnaðurinn' á því, að maðurinn sé spiltur frá fæðingu, (sbr.: "Í synd em eg fæddur og í synd gat mín móðir mig"). Unitarar þar á móti trúa á göfgi mannssálarinnar. Hjá þeim er ekkert syndafall, ekkert syndaflóð. Maðurinn er ófullkominn, en er einlægt að verða fullkomnari og fullkomnari. Unitarar treysta á hæfileika mannsins til að betrast; en "rétttrúnaðurinn" segir, að hann geti ekki nema ilt eitt af sjálfum sér. Unítarar trúa ekki á kraftaverk; gangur heimsins eftir vissum óbrigðulum lögum er það eina kraftaverk sem þeir trúa á. Guð opinberar sig fyrir öllum mönnum í sálum þeirra og hugskoti, og hefir gefið hverjum manni hæfileika til þess, að leita sín. Guð opinberar sig í náttúrinni, í sögu mannkynsins, í stjórn og viðhaldi heimsins, en ekki fremur í einni bók en annari, því að allar biblíur eru mannaverk, og meira og minna ábótavant.

Hin æðsta skylda unitara er sú, að reyna að lifa sem best, að gagna sem flestum, að lyfta sem flestum upp á æðra andlegt stig, að firra menn hleypidómum og hjátrú. Til þess að þetta verði sem léttast, þurfa menn að leitast við að afla sér svo hárra og veglegra og göfugra hugmynda, sem framast er unt, en hrinda hinum lágu og ógöfugu hugmyndum, sem vér höfum fengið í arf frá forfeðrum vorum, einkum hinum lágu og ljótu hugmyndum um grimman, ófullkominn guð, um réttlæti þveröfugt við hið æðsta réttlæti manna.

Maðurinn verður að endurleysa sig sjálfur með góðum verkum, enginn annar getur endurleyst hann. En með vondri breytni fjarlægir maðurinn sig frá guði. Kenning kyrkjunnar, að Ksistur endurleysi menn með dauða sínum, eða borgi með lífi sínu fyrir sök syndarans,— segja unitarar og sýna fram á, að umhverfi öllum réttlætishugmyndum, spilli hugarfari manna og sé svívirða og niðurlæging á guði.

Biblían er sumpart saga Gyðingaþjóðar, sumpart skáldskapur og sumpart safn goðsagna og þjóðsagna.

Jesús Kristur var maður, sonur þeirra Jóseps og Maríu, góður maður og elskulegur en ekki guð. Hann getur haft áhrif á oss með kenningum sínum og eftirdæmi, en ekki endurleyst oss fremur en vér getum endurleyst hver annan.

# GILDI GAMLATESTAMENTISINS.

(Athugasemdir við "Aldamót" 1893.)

---

Framh.

Svo fer séra Friðrik að verja forherðing Faraós, en það er eins og hann hafi ekki gáð að aðalstaðnum, sem talar um það, og sem hér er tilfærður að ofan. Hann talar um, að Faraó hafi forhert sjálfur hjarta sitt, áður en drottinn átti þar nokkurn hlut að máli, en það er rangt með farið. Því að fyrst þegar forherðing þessi kemur til orða í 4. kap., 21 v., þá er Móses ekkert farinn að eiga við Faraó. Guð er þá að skipa honum á stað til þess, og segir honum: "en ég mun láta hjarta hans *harðna*, svo að hann láti ekki þjóðina lausa." Þá veit Faraó ekkert um, að Ísraelsmenn ætli nokkuð í burtu. Svo fer Móses til hans og reynir, að fá Gyðinga lausa, en þá er Faraó svo þrályndur, að hann vill ekki sleppa þeim, einmitt af því, að guð gerði þetta sem hann var búinn að lofa Móses, að láta hjarta hans harðna. Svo láta þeir guð og Móses eina pláguna dynja yfir á eftir annari, og í sama kap., 9, 34, forherðr bæði hann og þjónar hans hjörtu sín svo, að þeir leyfa ekki Ísraelsmönnum að fara. Náttúrlega af þessari sömu ástæðu: guð var búinn að lofa því löngu áður að láta hjarta Faraós harðna, og hann efndi það, lét hann harðna við hverja plágu.

Þá fer séra Fr., á bls. 36 í fyrirlestrinum að verja það, að vér segjum, að guð gamlatestamentisins sé hefnigjarn og þyrstur í blóð. Vér segjum þetta, fullyrðum það og stöndum við það hvar sem vera skal. En séra Fr. er að reyna að lakka yfir það. Hann segir svo drýgindalega, að það sé hægðarleikur, að svívirða sannleikann í einni setningu, og meinar eflaust að vér gerum það. Hann tekur þó fram sum af dæmum þessum, sem vér segjum og sönnum að sýni að guð gamlatestamentisins sé hefnigjarn. Það var ómögulegt að komast hjá því fyrir hann, þau voru svo alkunn. T. d. þegar Jósúa fór herskyldi yfir Kanaansland, brendi borgirnar, deyddi mennina, risti þungaðar konur á kvið, og sagði að það væri drottins boð, að þeir yrðu að drepa alt. Hann var þó drottins fulltrúi þarna, Jósúa gamli. Eða þegar Samúel í nafni drottins býður Sál að fara í móti Amalekítum og "drepa svo mann sem konu, barn sem brjóstmylking, uxa sem sauð, úlfalda sem asna." Það er nú ótvíræðlega meiningin hjá séra Fr., að þegar vér tökum þetta fram, sem dæmi upp á hinn blóðþyrsta og hefnigjarna gyðingaguð, þá "séum vér að svívirða sannleikann." En í sömu andránni, (á bls. 37) viðurkennir hann þó

þetta alt saman eins og vér, þar eð hann segir, að þjóðirnar séu að framkvæma dóma drottins. Það skyldi stórlega hryggja mig, ef að nokkur maður, sem veitir þessu athygli, gæti verið svo einfaldur og heimskur, að sjá ekki þetta. Séra Fr. segir, að þetta séu dómar guðs, en þá er hann búinn að segja, að guð sé valdur að þessum verkum þjóðanna og mannanna. Hann hefir skipað þeim að fremja þessi verk. Vér höfum sagt og segjum enn, að ritningin segi, að þeir hafi gjört þetta samkvæmt skipun guðs. Okkur kemur þarna alveg saman, en sá er munurinn, að séra Fr. segir, að vér séum að svívirða sannleikann, þar sem vér tökum bókstaflega eftir ritningunni, og það sem meira er, vér berum fram *einmitt hið sama og hann.* Það þarf sannarlega lúþerskt rétttrúnaðarhöfuð til þess, að geta sannfærst af þessum framburði séra Fr.

Næst getur hann þess, (bls. 38) "að þjóðflokkar þeir, sem Ísraelsmenn útrýmdu, hafi fylt mæli synda sinna á barma." Ég skal nú ekki yrðast um það, en hvað höfðu börnin gjört í móðurlífi, að guð Gyðinga skyldi láta þessa sína elskulegu útvöldu þjóð, Gyðingana, stytta þeim aldur? Hvað höfðu skepnurnar gjört, úlfaldarnir, uxarnir, lömbin og sauðfénaðurinn, að guð skyldi skipa Gyðingum að hefna á þeim?

Ef að vér nú lítum til þeirrar kenningar kyrkjunnar, að heimurinn sé einlægt að spillast, þar sem hinir fyrstu menn voru saklausir og sælir, höfðu fulla þekkingu um guð, sem eðlilega kom af því að þeir töluðu við hann, eins og vér skeggræðum hver við annan, voru syndlausir, siðferðisgóðir, í alla staði elskuleg guðs börn, en svo smáversnuðu þeir, þar til guð afmáði þá í flóðinu góða, og um leið allar lifandi skepnur á jörðunni, nema það sem með Nóa fór í örkina. Svo smáversnaði heimurinn aftur, og á dögum Gyðinga er hann orðinn svo spiltur, að guð er farinn að senda út þjóð eina til þess að slátra mönnum. En nú segja klerkar að heimurinn fari enn æ versnandi. Hví hélt guð ekki áfram að afmá mennina af jörðunni, fyrst hann var byrjaður á því?

Séra Fr. segir "að hjá þessum þjóðum hafi afguðadýrkunin verið komin á sitt hæsta og hryllilegasta stig." En var þá engin afguðadýrkun hjá öðrum þjóðum? Var ekki afguðadýrkun í Kína, hjá siberisku þjóðunum, hjá indversku þjóðunum, persnesku þjóðunum, grísku þjóðunum, rómversku þjóðunum, norrænu þjóðunum, Afríkuþjóðunum, Ameríkuþjóðunum? Var ekki Astarte dýrkuð víðar, en á þessum litla bletti, þar sem Gyðingar voru að myrða og drepa? Veit ekki séra Fr., spyr ég enn fremur, að einmitt í biblí-

unni sést vottur um leifar af Phallus-dýrkun Gyðinga? (sjá 1. Mós., 24., 2. og 9. v.; 2. Mós., 4., 24.—26. v.; umskurn Gyðinga og víðar). Er það ætlun séra Fr., að siðir Afríkuþjóðanna og trúbrögð hafi verið mikið mildari, en þessara þjóða, sem Gyðingar brutu undir sig? Eða þjóðanna hér í Mið-Ameríku? Eftir því hefði guð átt að slátra þeim líka. Og ef vér lítum til þess, hvernig höfðingjar Gyðinga höguðu sér, hví lét hann ekki reiði sína bitna á þeim sem öðrum? Hann segir, að hvað eftir annað hafi Ísraelsmenn verið varaðir við glæpum heiðingjanna; en má ekki segja það um allar þjóðir? Eru ekki þess konar aðvaranir í biblíum allra þjóða, bæði teknar skýrt og ljóst fram í orðum, og svo í verkum, sem sýna hið illa í viðbjóðslegri mynd? Eða hvernig voru þeir hórkarlinn Salómon gamli og ræningjahöfðinginn Davíð? Var það siðgæði hjá Salómon að hafa svo margar konur, að þær ætluðu að gera út af við hann; hann verður þreyttur og uppgefinn á öllu saman og hrópar: "mikill hégómi, alt er hégómi!" Eða Davíð, þegar hann lætur hertaka borgina Rabba og aðrar borgir Ammonssona og lætur, eftir ritningarinnar eigin orðum, lima fólkið í sundur með öxum og sögum og járnherfum (sjá 1. Kron., 20., 3.) og mörg önnur frægðarverk Davíðs konungs, mannsins *eftir guðs hjarta.*

Sumir af þessum, sem drottinn var þarna að hegna, voru óvita börn; hann er þá að hegna fyrir annara syndir, og allur fjöldi þessara syndara að minsta kosti ekki verri en Gyðingar, þessi guðs útvalda þjóð. Að fara að verja þetta með því, að það séu dómar guðs, bætir ekkert úr. Það sem vér segjum er einmitt það, að þessir dómar séu hryllilegir, séu mótstríðandi kærleikanum, að þeir beri vott um grimman og hefnigjarnan guð. Hann hefnir stundum á þjóð fyrir syndir, sem forfeður þeirra höfðu drýgt fyrir 400 árum; er það réttlæti? En hvað það snertir, að vér förum með lygar, þar sem vér berum fram einmitt það sama og séra Fr. játar, þá ætti hver maður að sjá hve barnaleg sú ásökun er. Ég ætla ekki að fara lengra út í þetta að sinni, en ef að þessu verður svarað, er hér efni í miklu meira.

Svo (á bls. 40) getur séra Fr. um Sódóma og Gómorrha. Hann hefir þar augsýnilega sömu trú og Kristur. En Kristur trúði því, að eldi og brennisteini hefði rignt af himni yfir Sódóma og Gómorrha (sjá Lúk. 17., 29.) Kristur trúði og, að Jónas hefði verið í kviði hvalfiskjarins þrjá daga og þrjár nætur (sjá Matth. 12.) En þetta er sólarsaga, sem kemur fyrir allstaðar að heita má um heim allan, og merkir sólstöður á vetri. Þeir sem ekki hafa séð þessi brennisteinsský

eru flestir vantrúaðir á þau. Og engu síður munu flestir andlega heilbrigðir menn brosa að þessari barnalegu 'tröllasögu' um Jónas í hvalsmaganum. Þeir, þessir makalausu 'innblásnu' biblíuhöfundar, hefðu átt að hafa söguna á hinn veginn, að láta Jónas gamla gleypa hvalinn, synda með hann til lands og ganga svo með hann upp allar Efratssléttur, upp Tigrisárdalinn og spú honum svo á strætum Ninive-borgar! Það hefði þó altént verið kraftaverk, sem í frásögur var færandi.

Þá kemur nú (á bls. 40) þetta merkilega hjá sér Fr., sem mér er ómögulegt að skilja í, hvernig sem ég velti því fyrir mér. Það er, þegar hann fer að taka upp þessa gömlu gatslitnu staðhæfing, að *hegning syndarinnar sé dauðinn.* Vér vitum að ritningin segir það; Páll postuli segir: "að eins og syndin sé fyrir einn mann komin inn í heiminn, eins sé dauðinn kominn fyrir syndina." Kyrkjan byggir meginið af sínum kenningum á þessu sem undirstöðu; en mér fanst og finst einlægt, að þeir ættu að fara í felur með þessa undirstöðu, og ég skil ekkert í því, að séra Fr. skildi fara að draga hana fram. En hann hefir eflaust verið nauðbeygður til þess. Ég skil ekki í því að maður, sem þó hefir hlotið að læra eitthvað í náttúrufræði, sem hefir hlotið að fá einhverja, þó kannske óljósa busahugmynd um jarðfræði, skuli leyfa sér að segja það nú á dögum, að dauðinn sé í heiminn kominn fyrir syndina. Börnin okkar, sem ganga á alþýðu-skólana, vita, að þetta er bara bull og ósannindi. Ég hefi oft verið að brjóta heilann um þetta. Er maðurinn svo ófróður, að hann viti ekki hvernig þessu er varið? Nei, það þykir mér ekki líklegt. Séra Friðrik og þeir flestir, sem þessu halda fram, eru of skynsamir menn til þess. Er það af því, að þeir vilji vísvitandi blekkja almenning? Mér gengur illa að trúa því. Eða er það af því, að þeir ætli, að almenn-ingur sé bættari með því, að vita hið ranga í stað hins rétta, og svo hugsi þeir, að ósannindin fyrirgefist, af því skrökvað sé í góðum til-gangi? Ég held það sé einhvern vegin á þá leið, og þykir mér leitt, en ég vil taka þá skoðunina, sem í mínum augum er einna skárst fyrir þá sjálfa.

Það er búið að margsegja það og sýna, að vér vitum það vel, að dauðinn var í heiminum löngu, löngu áður en nokkur maður var í honum sem synd fremdi. Alt eðli dýranna er einmitt bygt á dauð-anum; líkami þeirra er allur bygður á dauðanum. Maðurinn er sömuleiðis þannig gerður, að líf hans alt og tilvera byggist á dauð-anum. Hann getur ekki lifað nema hann deyði dýr og grös, hann þarfnast þess óumflýjanlega til þess að halda við lífsaflinu. Svo er

líkami hans daglega að deyja. Dauðu efnin flytjast burtu en önnur ný koma í þeirra stað. Vér vitum það, að þúsundum ára. kannske hundrað þúsundum eða millíónum ára, áður en hinn fyrsti maður fæddist, var þetta fyrirkomulag á jörðu, að dýrin lifðu á grösunum og á öðrum dýrum. Hvalurinn lifði á síld, rándýrin á öðrum dýrum. Vér vitum það, að þau lifðu þannig, að dauðu efnin í líkama þeirra eyddust og fluttust burtu, því að dauðinn í sjálfu sér, þessi daglegi dauði hinna lifandi skepna, er að eins efnabreyting, er eitt atriðið í lögmáli því, er gerir, að nokkur skepna getur lifað. En séra Fr. og klerkar yfir höfuð, er einlægt að reyna að berja inn í menn þeirri rammvitlausu kenningu, að maðurinn hafi verið fullkominn í fyrstu. Þeir ættu þó að vera búnir að veita því eftirtekt, að kenning sú er orðin athlægi barnanna auk heldur hinna eldri, sem meira vita. Og þetta er einn hornsteinninn undir kenningum kyrkjunnar! Er það ekki undarlegt, hvernig menn eru gerðir?

Svo segir séra Fr., að aldrei hafi guðleg mildi opinberast á jafn dýrðlegan hátt, eins og þegar guðs eingetinn sonur gekk í dauðann fyrir mennina." Já, það er nú svo, en ekki erum vér honum alveg samdóma þar.

Látum oss nú sjá. Mennirnír höfðu syndgað svo mikið, þeir voru orðnir svo vondir og óguðlegir, að guð sjálfur réði ekkert við, hann sá lengi, lengi engin ráð til að hjálpa þeim. Hann var orðinn þeim svo reiður, að hjarta hans brann af heiftarloga til þeirra þessara syndara, hann þurfti að sætta þá við sig; en svo segir kyrkjan, að hann hafi engin önnur ráð séð til þess, en þau, að taka besta og elskulegasta soninn sinn, pína hann og lífláta, til þess að geta fyrirgefið syndurunum, svöllurunum, þjófunum, morðingjunum, lygurunum. Sumir fara jafnvel svo langt, að segja, að hann hafi tekið sjálfan sig og pínt sig til þess að fyrirgefa syndurunum. En það er þá skrítið, að þeim skuli aldrei hafa komið það til hugar, að væri svo, væri guð að pína sjálfan sig, þá væri hann að refsa sjálfum sér fyrir eitthvað, sem hann annaðhvort hefði gjört eða ógjört látið.

Hver sem nokkuð hugsar út í þetta, getur ekki annað en hrylt við mönnum þeim, sem þannig er varið, sem hafa þá réttlætishugmynd, að til þess að fyrirgefa syndurunum, til þess að verða afreiður, þurfi guð að taka elskulegasta barnið sitt, pína það og slátra því. Vér skulnm hugsa oss álíka dæmi hjá mönnum. Það er maður einn sem á nokkur börn og elskar þau heitt og innilega, en þó eitt þeirra mest af öllum, enda er það allra elskulegasta barn, hugljúfi allra, sem það þekkja, gott, siðsamt og ástúðlegt í alla staði. Nú kemur

einhver fantur sem lýgur og stelur, myrðir menn og deyðir, hann gerir manni þessum alt ilt, sem hann getur, svívirðir dætur hans og deyðir sonu hans; hann nær þessu elskulega barni hans á sitt vald og kvelur það og pínir. Faðirinn reiðist ákaflega þessum aðförum öllum, en í stað þess að refsa þessum illvirkja, þá stekkur hann í bræði sinni á þennan elskulega son sinn, lemur hann, kvelur hann og pínir og að lokum krossfestir hann, — alt til þess að geta fyrirgefið hinum seka. Sonur hans var búinn að þola hörmungar af hendi illvirkjans; meðferðin á systrum hans, dauði bræðra hans, þetta lág þungt á honum, og sjálfur hafði hann verið kvalinn og píndur. En í stað þess að rétta við hluta hans, tekur þessi elskulegi faðir hann, kvelur hann og pínir og líflætur að lokum, til þess að geta fyrirgefið illvirkjanum. Er nú, spyr ég, nokkurt vit í öðru eins? Hvernig í ósköpunum getur nokkur maður hugsað sér að verja þetta?

Meira næst.

---

# RITVISSA BIBLÍUNNAR.

**Eftir C. B. Waite.**

Það er nú búið að sýna fram á svo mikla ósamkvæmni, villur, siðleysi og barnaskap í bókum gamlatestamentisins, að jafnvel allur þorri hinna "rétttrúuðu" manna fælist þær sem heitan eldinn og snýr sér undan, þegar á þær er minst sem guðdómlegan innblástur. Þeir finna það, að þeir geta ekki varið þær, geta ekki haldið þeim uppi lengur. En í stað þess snúa þeir sér að nýjatestamentinu og ætla sér að halda í það dauðahaldi, hvað sem á dynur; þar segjast þeir fá hið guðdómlega orð, þar sé uppruni trúarkenninganna, þessar bækur séu áreiðanlegar sem guð sjálfur.

Ef að hægt væri að sanna það, að bækur þessar, einkum þó guðspjöllin, væru skrifaðar af postulunum eða á dögum þeirra, þá gæti það að vísu ekki sannað trúarsetningar kyrkjunnar, en það gæti gert þær að minsta kosti líklegar. En sé því nú svo varið, að ekki sé hægt að sanna þetta, og ef að jafnvel ástæður og líkur allar benda til, að postularnir hafi ekki skrifað bækur þær, sem þeim eru eignaðar; ef að flest — ef ekki alt — bendir á, að þær séu ritaðar einum 100 árum seinna, þá sér hver maður, að grunnurinn er allur fallinn undan þessari rétttrúnaðarbyggingu kyrkjunnar.

Þeir halda fast í þetta klerkar, og segja að vitnin séu bæði mörg og áreiðanleg, sem sanni gildi bókanna, og alþýðan trúir þessu, af því hún veit ekki betur; maður getur sagt, að hún viti eiginlega ekki neitt í þessu tilliti.

Prófessor Stowe, kyrkjumaður, segir t. d. í bók sinni ("Origin and History of the Bible, Hartford 1868), að "vitnin um gildi nýjatestamentisins frá fornum tímum séu 100 manns." Þetta ætti nú að vera nægilegt fyrir hverja bók, en nú skulum vér líta yfir málið frá rótum. Og þá er fyrst að gæta að þessum fornu ritum.

Fyrir 1849 voru hin elstu frumrit nýjatestamentisins þessi:

A. Codex Alexandrinus. Sendi Cyrill yfirbiskup í Alexandríu hann til Englands árið 1627, og ætla menn að hann hafi ritaður verið á árunum 325—350 e. K.

B. Codex Vaticanus í Vatican-bókasafninu í Róm. Ætla menn, að Bessarion, grískur kardínáli, hafi flutt hann til Ítalíu snemma á 15. öld. Eldri telja og flestir hann, en hinn fyrri, frá því um 300 e. K., eða þar um bil.

C. Codex Ephraim, nefndur eftir Ephraim hinum sýrlenska, og á hann að vera ritinn seinna en Codex Alexandrinus, eða eftir 350 e. K.

D. Codex Beza, er Theodore Beza gaf háskólabókasafninu í Cambridge á Englandi árið 1581, en Beza fékk hann 1552 frá klaustri hins heilaga Irenaeusar í Lyons, og á hann fyrst að hafa ritinn verið nálægt 490 e. K.

Þetta eru nú elstu handritin sem til voru fyrir 1849. En það ár ferðaðist Dr. Tischendorf til klausturs hinnar heilögu Katrínar á Sinaifjalli, og var það þá eitt sinn, að munkur einn færði honum, lauslega bundið í klút, nokkur blöð af Septuaginta-handritinu (handrit af 70 manna þýðingu biblíunnar), handrit af öllu nýjatestamentinu, ásamt bréfi Barnabasar og köflum úr "Hjarðmanni Hermasar." Doktorinn og vinir hans réðu sér nú ekki fyrir gleði og sögðu, að þetta væri hið fullkomnasta, elsta og besta handrit af nýjatestamentinu,s em þá hafði fundist. Og um leið var því haldið fram, að ekki væri það neitt ólíklegt, að þetta kynni að vera handrit það, sem Eusebius hefði ritað í Alexandríu fyrir helstu kyrkjurnar að boði Konstantínusar.

En þegar menn fóru að tengja handrit þetta við nafn Konstantínusar, þá gáfu þeir upp kröfu þá, að það væri hið elsta handrit, því að, svo framarlega sem það hafi verið ritað að boði Konstantínusar, þá hefir það ekki verið ritað fyr, en eftir árið 300, og þá er það yngra en Vatican-handritið.

Þannig geta menn séð, að ekkert handrit nýjatestamentisins er til, sem menn gera kröfu til að sé eldra en árið 300. En hvaða þýðingu hefir nú þetta, og hvaða ályktun geta menn af því dregið? Það liggur í augum uppi, að saga nýjatestamentisins, fyrir árið 300, þolir ekki, að hún sé rannsökuð. Menn sjá það þá, að frá fyrstu og annari öldinni eftir Krist, er ekkert handrit til, og jafnvel ekki frá þriðju öldinni heldur. Og meira að segja: enginn maður gerir nokkra kröfu til þess, að hafa séð handrit frá þessum tímum í mörg hundruð undanfarin ár.

Ef að þessi handrit hafa verið til, hvar er þá skrá um það, og hvenær voru þau eyðilögð, hvar voru þau eyðilögð og hverjir voru það, sem gjörðu það?

Þá koma nú þessi 100 vitni. Vér skulum nú reyna að herða upp hugann og líta framan í þessi 100 vitni Professors Stowes.

Það er þá fyrst að spyrja að því, hvenær þau hafi lifað og ritað þessi vitni? Því að það er undir eins ljóst, að alt sem hinir síðari hafa ritað hefir verið bygt á því, sem hinir fyrstu hafa sagt og skráð. T. d. það, sem sagt var eður skrifað á fjórðu öldinni, hlýtur að hafa verið bygt á því, sem skrifað var á þriðju öldinni, og það sem skrifað var á þriðju öldinni, hlaut að byggjast á því, sem skrifað var á annari öldinn, og aftur það sem á annari öldinni var skráð, hlaut að byggjast á því sem skráð var á fyrstu öldinni eða bygt á munnmælasögum. Menn geta skynsamlega ályktað það, að munnmælasögur fyrstu aldarinnar hafi verið skráðar bæði á fyrstu og annari öldinni og eftir það, að þær hafi verið afskrifaðar hvað eftir annað.

Nú skulum vér fara þannig að og kasta úr þeim hinum seinni sem skrifað hafa upp eftir öðrum. En þá sjáum vér, að 32 af þessum 100 vitnum skrifuðu eftir kyrkjuþingið í Niceu eða eftir 325 e. K. Þeir voru þessir: Ambrosius, Augustinus, Basilius mikli, Cassiodorus, Chrysostomus, Cyrillus frá Jerúsalem, Cyrillus frá Alexandríu, Ephraim, Epiphanius, Euagríus, Gregor frá Nazians, Gregor frá Nissa, Hieronymus, Hilarius, Photius, Socrates, Sozomen, Theodoretus, Rufinus og 13 aðrir.

Hugsum oss prófessor Stowe fyrir rétti með sín 100 vitni til þess, að sanna ritvissu bóka nýjatestamentisins, og eru þessi 32 vitni í herbergi út af fyrir sig. Svo er kallaður fram sá, er merkastur er þeirra allra, Hieronymus, og leiddur upp á vitnapallinn, og farið að spyrja hann.

Spurning: Hvar rituðuð þér þessar bækur yðar, sem síðan hafa orðið svo nafnfrægar í kyrkjunni?

Svar: Þetta frá árunum 375—400.

Sp.: Hvaðan höfðuð þér þetta sem þér vitið um uppruna kristinnar trúar?

Sv.: Vér efuðumst aldrei um uppruna trúar vorrar. Vér höfðum sönnunina í ritum kyrkjufeðranna Tertullians, Irenausar, Eusebiusar og margra annara; og svo líka í guðspjöllunum og öðrum ritum, sem í gildi voru og lesin hjá söfnuðum vorum.

Sp.: Voru þá nokkur rit til, sem ein höfðu inni að halda kenningar þær, sem kristnin er bygð á?

Sv.: Nei. Á mínum dögum tókum við fram yfir önnur rit, hin fjögur guðspjöll, sem biskuparnir höfðu skrifa látið, og bréf þau, sem þeim fylgdu, en mörg önnur rit voru og mikils metin af söfnuðunum. Ég lagði t. d. sjálfur út úr hebresku bók eina um barndóm Krists, sem menn voru mjög hrifnir af.

Sp.: Trúðuð þér því, sem í bók þessari stóð?

Sv.: Ekki fyllilega. Satt að segja fanst mér vera of mikið til af þess háttar ritum.

Sp.: En hví voruð þér þá að þýða bók þessa?

Sv.: Ég gjörði það að beiðni biskupa tveggja, þeirra Chromatiusar og Heliodorusar.

Sp.: Höfðuð þér nokkra sönnun fyrir, að það væri satt sem í þeim stóð, aðra en þá, að þær voru í gildi hjá söfnuðunum?

Sv.: Nei.

Sp.: Höfðuð þér þá nokkra aðra sönnun fyrir þeim, en þá sem áður er getið, og það, að kyrkjufeðurnir skrifuðu þær og sögðu vera heilagan sannleika?

Sv.: Nei, vér leituðum ekki frekari sannana en þetta.

Nú er sönnunum þessum fyrir gildi bóka nýjatestamentisins mótmælt af þeirri ástæðu, að of langt sé um liðið frá því bækurnar fyrst áttu að vera skrifaðar, og að þær séu samtíningur af sögusögnum er gengið hafa manna í millum; dómarinn fellst á þetta, og er því þessum 32 vitnum vikið frá sem ógildum.

Hinir 68 eru nú kallaðir fram, og mál þeirra vandlega skoðað, og kemur það þá í ljós, að 26 af þeim hafa lifað eftir árið 200, og er þeim vikið frá af sömu ástæðum og hinum 32. Af þessum 42, sem þá eru eftir, játar verjandi opinberlega, að 33 hafi lifað og skrifað eftir árið 100. Um þá segir dómarinn að hin sömu mótmæli gildi, og giltu við öll hin fyrri vitnin. Kveðst hann vilja heyra hvað þeir segja, sem lifðu á fyrstu öldinni, og skrifuðu á fyrstu öldinni, þegar

atburðir þessir gerðust, sem frá er skráð í guðspjöllunum, og þau segja að gerst hafi. "Hve mörg eru þessi vitni?" segir dómarinn.

Stowe: Níu.

Dóm.: Hver eru nöfn þeirra?

Stowe: Apollonius, Basilides, Celsus, Clemens frá Róm, Hermas, Ignatius, Barnabas, Josephus og Papias.

Dóm.: Látum þá koma fram til rannsóknar.

Framhald.

---

# EINN KRISTUR ENN.

Við og við eru einlægt að koma upp Kristar hér og hvar; nú hefir um tíma verið allmikið talað um Krist einn nýjan. Maðurinn neitir Francis Schlader í Nýju Mecico. Er hann mjög líkur í sjón og sagt er, að Kristur hafi verið. Hann smakkar ekki mat (á líklega við kjötmat) og gefur blindum sýn, heyrnarlausum heyrn, hann læknar halta og bæklaða, og hughreystir þá, sem sturlaðir eru og flytur þeim frið og ánægju. Eins og Kristur vinnur hann sér áhangendur með góðum verkum; hann gerir þá að áhangendum sínum og vinum, sem ofsækja hann og úthrópa sem svikara, bragðaref og vitfirring. Í tvær vikur hefir hann nú ferðast um, og fylgja honum menn hundruðum saman; ganga sögurnar um lækningar hans fjöllunum hærra, og eru óskiljanlegar. Af engum þiggur hann fé fyrir lækningar sínar. Vex orðrómur hans óðum. Á mynd sem vér höfum séð af honum, kemur hann fyrir sem góðlegur, skarplegur maður, með hátt enni, mikið nef íbogið, nokkuð þunnleitur, alskeggjaður, með hár á herðar ofan, klofið í miðju enni. Lækningar þessara manna eru margir nú á tímum farnir að ætla, að séu dáleiðsla eða eitthvað þvílíkt. Þeir dáleiði mennina og noti ímyndunaraflið til þess að lækna þá. Svo ætta menn að verið hafi með margar lækningar Krists, enda stðfestist það, þegar menn gjöra hið sama nú á þessum vantrúariunar tímum, og hann gerði áður fyrrum.

---

**Til athugunar.** — Oss væri kært að vinir vorir, og einkum útsölumenn, vildu senda oss nöfn manna, sem líklegir mundu til að kaupa DAGSBRÚN, eftir að hafa kynt sér innihald hennar, og skulum vér þá senda þeim sýnisblöð ókeypis. Sendið oss nöfn sem flestra greindra, sjálfstæðra manna og kvenna.

# AVARP

## TIL KAUPENDA DAGSBRÚNAR.

Vér getum glatt alla kaupendur Dagsbrúnar og aðra vini vora með því, að vinsældir blaðsins og kaupendafjöldi fer stöðugt vaxandi. Vér höfum fengið mjög ánægjuleg bréf um blaðið víðsvegar úr bygðum Íslendinga, og láta þeir bréfritarar allir, *undantekningarlaust*, í ljósi ánægju sína yfir öllum frágangi á Dagsbrún, og óska henni besta gengis. — Vér viljum ekki ginna menn með neinum miður áreiðanlegum loforðum, og því viljum vér að eins heita því, að halda blaðinu framvegis að minnsta kosti í eins góðu horfi og nú.

Að eins fáir af kaupendum vorum hafa enn sent oss þessa árs andvirði blaðsins, enda tæpast við því að búast. En nú brosa gnægðir og góðæri hvívetna við bændum sem búlausum, og vonum vér því, að kaupendur vorir láti oss njóta þess lítillega, með því að greiða oss andvirði blaðsins fyrir yfirstandandi ár — einn dollar. Oss kæmi mjög vel að fá það sem allra fyrst, til þess að vér getum staðið í skilum með prentkostnað og önnur útgjöld við blaðið. Ef vér hefðum nú í höndum þessa árs andvirði frá öllum kaupendum vorum, þá gætum vér nú þegar stækkað 'Dagsbrún' að mun.

Eftirfylgjandi menn veita andvirði blaðsins móttöku fyrir vora hönd: Mr. G. A. Dalmann, Minneota, Minn.; Mr. Thorl. Thorfinnsson, Hallson, N. D.; Mr. Björn Halldórsson og Mr. Brynjólfur Brynjólfsson, Mountain, N. D.; Mr. B. F. Jósafatsson, Pembina, N. D.; Mr. E. H. Johnson, Spanish Fork, Utah; Mr. Gísli Sæmundsson, Seattle, Wash.; Mr. Ásgeir J. Lindal, Victoria, B. C.; Mr. Stephan G. Stephansson, Tindastóll, Alta; Mr. Baldvin Helgason, Selkirk, Man. — Fleiri innköllunarmenn verða auglýstir síðar. — Einnig má auðvitað senda peninga beint til M. Péturssonar, P. O. Box 305, Winnipeg, Man.

Svo mörg eru þá þessi orð, og viljum vér biðja alla góða drengi og velunnara 'Dagsbrúnar' að veita oss lið með því, að útvega oss nýja kaupendur og á hvern annan hátt styðja að framförum blaðsins.

Og svo óskum vér öllum frjálslyndum vinum vorum besta gengis og auðsællar uppskeru.

Winnipeg, 26. Ágúst 1895. *Útgáfunefndin.*

---

**Okeypis.** — Nýjir, fyrirframborg. kaupendur að 'Dagsbrún fá ókeypis þessi fjögur mjög svo merkilegu rit: 'Um þrenningarlærdóminn,' 'Guð Gyðinga og guð kristinna manna,' 'Mótsagnir orþódoxíunnar' eftir Kristofer Janson, og 'Unitara katekismus,' eftir hinn merka prest, Rev. M. J. Savage. (Þýðingar eftir Björn heitinn Pétursson).

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: Magnús J. Skaptason.
538 Notre Dame Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður: Magnús Pétursson.
601 Ross Ave., Winnipeg.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.